# Verkalýðsblaðið

14. tbl. 9. árg. | 9. sept. 1980 | Verð: kr. 400,-

## ASÍ: Átti ekki að semja um kaup og kjör?

Litlar sem engar bitastæðar fréttir berast af samningafundum toppanna í ASÍ og VSÍ. Þó á svo að heita að verið sé að semja. Oft hafa glímutök verkalýðsforkólfanna og atvinnurekenda sýnst vera leiksýning ein og engin átök, en nú heyrast raddir meðal almennings sem segja að þessi skollaleikur nú taki út yfir allan þjófabálk, svo jaðri við hneyksli.

Af félagsfundi Dagsbrúnar bárust þær fréttir að Gvendur Jaki hafi beðið "menn sína" að samþykkja einróma, án umræðu, verkfallsheimild, sem hann gæti síðan tekið með sér undir hendinni á fund Þorsteins og co. Spaugilegt er að vita til þess ótta sem verkalýðsforingjarnir bera í brjósti gagnvart dómi félagsmanna sinna. Ef til vill er almenningsálitið að hluta til gegn verkfalli, eins og formaður BSRB sagði í viðtali, en það er að dómi kommúnista vegna slæmrar reynslu almennings af vita bitlausum maraþon verkföllum, sem ekki hafa fært fólki annað en fórnir. Kaldhæðni örlaganna segir okkur að því miður hræðir Gvendur Jaki engann

framhald á síðu 7







## Svo var það Pólland

Enn einu sinni hefur pólskur verkalýður löðrungað pólskt valdakerfi. Stefna stjórnvalda og vangeta til að uppfylla einfaldar kröfur um brauð og lýðréttindi hleypti í fyrsta sinn af stað baráttu í Póllandi um miðbik 5. áratugarins. Síðan urðu verkföll, bardagar og kröfugöngur í landinu 1970 sem lauk með nokkrum árangri baráttufólksins.

Núna endurtekur sagan sig nema hvað hreyfingin er víðtækari og enn pólitískari en áður og valdhafar eru um hríð óvissir hvað gera skuli

### Orsakirnar

Orsakir ástandsins í Póllandi eru að sjálfsögðu bæði efnahagslegar og pólitískar. Þær eiga sér upphaflega rætur í hvernig alþýðulýðveldið Pólland varð til eftir lok 2. heimsstyrjaldarinnar. Geysiöflug andfasísk og sósíalísk hreyfing var notuð sem bakhjarl við að hefja brytingar á pólsku þjóðfélagi í þágu verkafólks og annarrar alþýðu, en margt bendir til þess að farið hafi verið of hratt yfir og skort hafi samstöðu þorra þjóðarinnar um þessar breytingar.

Skýringin á þessu liggur aftur í lélegri fjöldastefnu og valdboðum Komintern-flokkanna. Þá hljóta vaxandi völd og gagnbylting skriffinna og forréttindamanna í flokksforystu sovéska flokksins að hafa ráðið miklu.

Pólitískar orsakir uppreisnarinnar í Póllandi nú eru aðallega tvær. Annars vegar sjá verkamenn að lítill hópur "kommúnista" lifir lúxuslífi meðan almenning skortir mat, fé og vinnu. Hins vegar þola menn ekki að fá ekki að gagnrýna þjóð-

framhald á síðu 6

## Okur og svínarí

Hvað findist þér um það, lesandi góður, ef þú þyrftir að borga aðgangseyri til að komast inn í Hagkaup til að versla? Og hvernig findist þér að þurfa fyrst að borga þig inn í Vörumarkaðinn til þess að fá allra náðarsamlegast að kaupa þig inn á Laugardalsvöllinn? Fáránlegt, ekki satt?

Álíka fáránlegt er það, að þurfa að borga kr. 3000 (1000 fyrir börn) inn á sýninguna "Heimilið 80" í Laugardalshöllinni, sem þjónar því hlutverki að auglýsa það sem á boðstólum er. Auðvitað ættu þeir sem þar auglýsa að borga kostnaðinn. Leiktæki þau, sem komið hefur verið fyrir í "Tívólíinu" í tengslum við sýninguna bjóða upp á hina bestu skemmtun. Þetta er mikið nýnæmi, ekki síst fyrir börnin. En þvílíkt okur! 800-1500 kr. kostar hver ferð í hringekjurnar, ferð, sem tekur innan við 5 mínútur. Þar er ekki gefinn afsláttur fyrir börn.

Hámark ósómans er það fyrirkomulag, að láta alla, sem ætla í Tívólí borga fyrst inn á sýninguna. Hjón með 2 börn, sem stoppa góðan hálftíma á leiktækjasvæðinu og láta það eftir sér að fara öll í 3 mismunandi hringekjur og veðja á fáein númer að auki, þurfa að punga út 25.000 kr. fyrir það. Börnin verða eðlilega al-

framhald á síðu 2

# Mao Zedong og Kína –

– Í kjölfar víðtækra lýðræðisumbóta og efnahagsuppbygginar í Kína kemur í ljós breytt afstaða til forystumanna í landinu. **Herferð** er í gangi gegn hvers kyns forréttindum leiðtoga og líklega verður lögfest að menn megi ekki gegna mikilvægum embættum lengur en 15 ár í senn.

Þá sést í kínverskum fjölmiðlum sí og æ áminning um að fjöldinn og stéttirnar séu stærra hreyfiafl í þjóðfélaginu en einstaklingurinn.

Okkur, vinum Kína, sýnist þetta allt vera liðir í því að efla völd og rétt almennings í landinu um leið og þetta lýsir jarðbundnari og hlutlægari marxisma en tíðkaðist meðan sviftingar voru meiri í Kína.

Það er venja íslenskra fjölmiðla að grípa eitthvert æsilegt eða þversagnakennt atriði úr atburðum í öðrum löndum. Gott dæmi eru aftökufréttir frá Íran, en þaðan heyrum við ekki frásagnir um annað, nema ef til vill erfiðleika Bani Sadr og yfirlýsingar Khómeynis.

Þegar borgaryfirvöld í Peking færðu "Lýðræðisvegginn" var honum lokað í íslenskum fjölmiðlum og ekki var **getið** um gífurlegar breytingar sem hafa orðið á kínverskum dagblöðum með lesendabréfum og gagnrýnisdálkum.

Nýna heyrum við mikið um að verið sé að gera lítið úr Maó, taka niður myndir af honum og öðrum stórmennum sósíalismans.

En útskýringar kínverskra yfirvalda ná ekki eyrum Íslendinga. Þau segja Maó hafa verið mikilhæfasta leiðtoga kínversku byltingarinnar og að hann hafi lagt fram stóran skerf til marxismans sem menn skuli læra af. Um leið vilja þeir hampa framlögum annarra eins og Sjú enlæ, Líu Sjásís og Sjú De – sem ásamt Maó gerðu allir mistök á ferli sínum að sögn kínverja.

Máo á að hafa orðið á sín alvarlegustu mistök eftir 1960. "Hann var maður en ekki guð" – segja kínversk blöð og telja að fækka megi verulega myndum og styttum á opinberum vettvangi af Maó, Húa eða öðrum. Væntanlega á þetta líka við Marx Engels, Stalín og Lenín. Bækur þeirra eru kínverjum námur eftir sem áður.

Von er a'viðamiklu mati á menningarbyltingunni og Maó formanni eftir flokksþing kommúnistaflokksins snemma í haust. Fróðlegt verður að sjá hverju íslenskir kommúnistar eru þar sammála og hverju ekki. Og við undirstrikum margfaldlega að það er ekki ætlun okkar að líta á annað en aðalatriði í slíku uppgjöri. Skoðanir ísl. kommúnista á þeim breyta í engu gangi mála hér eða í Kína og eðlilegt ósamkomulag um einhver mál bera kommúnistaflokkar í bróðerni meðan þeir líta hvor á annan sem slíkan flokk.

–agé.



# Regan gegn Carter

Það hafa verið miklar sviptingar í Bandaríkjum forsetakosningum frá því að Kennedy var myrtur og þar til Carter missti meirihlutafylgi kjósenda skv. skoðanakönnunum. Bandarískar forsetakosningar varða heiminn allmiklu því forsetinn er afar valda mikill maður og ræður þá töluverðu um gang heimsmála því miður.

Á sínum tíma gerði Verkalýðsblaðið lítið úr Carter og spáði því að hann yrði bandarískri alþýðu til tjóns fremur en gagns. Svo hefur einmitt farið enda ringulreiðin og kreppan í Bandaríkjunum afleiðing stéttabaráttu og ekki á færi lítillar yfirstéttar að lækna mein kapítalismans. En

Carter hefur verið óvenju andsnúinn lífskjarabótum og lýðréttindum almúgans og



sérlega lélegur diplómat í samskiptum við erlenda aðila sbr. gíslamálið í **Teheran.** En í raun er **Carter aðeins** skjöldur valdamestu hringanna í bandarísku þjóðlífi – það er stefna ákveðins hluta yfirstéttarinnar sem kemur fram hjá forsetanum. Og nú virðist sem margir valdaaðilar telji harðari afstöðu heima og heiman meðalið gegn erfiðleikum og fallandi stjórnu Bandaríkjanna. Þar með eru líkur á sigri Reagans miklar. **Hann hefur boðað aukinn hernaðarviðbúnað,** harðari viðbrögð Bandaríkjanna á alþjóðavettvangi og aukið **svigrúm fyrirtækja innanlands.** Er því ljóst að bar átta gegn stríðsundirbúningi risaveldanna og harðri sókn Sovétríkjanna verður seinunnari en áður á komandi árum, þó svo að forsetakosningarnar ráði ekki mjög miklu þar um.

–agé.

# SHA Akureyri: Aðgerðir 21. ágúst

Þó að miðnefnd SHA hafi látið nægja að senda frá sér eina ályktun í tilefni 21. ágúst, þá voru ekki allir herstöðvaandstæðingar ánægðir með það. Akureyrskir herstöðvaandstæðingar sendu nefnilega frá sér sérstaka ályktun og efndu auk þess til kvöldfundar um málið. Að sögn Guðmundar Sæmundssonar var fundurinn ágætur, að vísu ekki mjög fjölmennur. Kári Valsson sóknarprestur í Hrísey flutti ræðu. Hann er tékki en er búinn að vera hér í 50 ár. Einnig var lesið úr góða dátanum Svejk og lesin ljóð.

Fyrirhugaður Chile-fundur þeirra norðanmanna fellur niður, en í staðinn verður fundur 11. sept. í Einingarhúsinu kl. hálf níu þar sem ræða á beiðni miðnefndar um að halda landsráðstefnu SHA á Akureyri í haust og þá hvernig hún á að vera.

Akureyrskir herstöðvaandstæðingar fjölmennið!

Fréttaritari.



# Ný dæmi um vígbúnað

Meðan friðarhjalið berst frá talsmönnum risaveldanna og iðnríkin horfa uppá hernám Afganistan, aðgerðarlaus að mestu, eykst vígbúnaðurinn frá degi til dags.
Skv. upplýsingum frá NATO, ýmsum fréttastofum og Kína eru nýjustu fréttir þessar: Sovétmenn bættu í sumar um 20.000 hermönnum í lið sitt í Ungverjalandi um leið og þung stórskotaliðsvopn og skriðdrekar voru endurnýjuð að hluta.
Eftir að Brésneff gortaði af því að Sovétmenn myndu flytja 20.000 manna lið og 1000 skriðdreka frá A-Þýskalandi komu til liðsflutningar sem vestrænir fréttamenn fengu ekki að fylgjast með. 990 nýjir skriðdrekar (T-72 og T-64) óku yfir A-Þýskaland að V-þýsku landamærunum í fylgd 19000 þrautþjálfaðra hermanna Rauða hersins.

Kúbanski herinn er orðinn sóknarher, segja kínverjar. Frá 1978 að telja hafa Sovétmenn séð 15 þús. manna flugher Kúbu fyrir nýjum Mig-23 vélum sem flytja kjarnavopn. 24 stórar flutningavélar af gerðinni AN026 komu þangað fyrir skömmu og flugvellir á Kúbu hafa verið lengdir sem bendir helst til þess að þeir eigi að vera nothæfir fyrir stórar og hraðfleygar sprengjuvélar af gerðinni Backfire, sem er nýjasta kjarnasprengjuvél Sovétmanna. Kúbumenn hafa fengið tvo Foxtrott-kafbáta og ráða yfir 27 hraðbátum með eldflaugum. Alls eru um 230 þús. menn í her og varaher Kúbu, þar af hafa um 50 þús. reynslu úr bardögum í Afríku.

Bandaríkjamenn hafa samið um afnot af flotastöð í Berbera í Sómalíu. Fyrrum var þar bækistöð sovétmanna en þeir hurfu þaðan í kjölfar versnandi sambúðar Sovétríkjanna og Sómalíu. Með þessu eru Bandaríkjamenn að styrkja stöðu sína við Persaflóann til mótvægis við Írak og Afganistan.

8. september hefst heræfingin Autumn Forge í Evrópu. Það er yfirherstjórn NATO í Evrópu (SACEUR) sem skipuleggur æfingarnar er ná til allra Evrópulanda. Hvað skyldi gerast á Íslandi?

Æfingarnar beinast að því að taka á móti sovéskri innrás í Evrópulönd.

Allt eru þetta heldur ill merki um vaxandi stríðshættu.

–agé.

## *Glottandi hlutleysi er verst*

framhald af baksíðu

þjóðarandstöðu gegn víetnömum, – segir Dþ. og hefur eftir fréttamanni frá APF í Frakklandi að skæruliðar séu ekki sem fiskar í vatni meðal fólksins. Dagur bendir á að Laos og Kampútsea séu víetnömsk "fylgiríki" (!) og að víetnamar hafi trúlega talið slíkt nauðsyn öryggis síns vegna. "Annað mál er hvers hagstætt slíkt ástand verður fyrir kampútseumenn og laóta", skrifar Dþ. , en telur þó engan veginn tryggt að þeir uni ástandinu og kínverjar, bandaríkjamenn og tælendingar muni reyna að ýta víetnömum út úr löndum þessum (!).

Vondar eru rangar staðhæfingar Dags, en verri þó þessi kaldrifjaða og lítilsvirðandi afstaða sem skín út úr greininni þrátt fyrir hlutleysisyfirbragð og tilvísandir í "ýmsa", "marga" og allt það sem "kann að vera". Því miður eru svona skrif í Alþýðubandalagsforystunnar sem forðast að taka ljósa afstöðu til stóratburða út í heimi.

–agé.

## *Okur og svínarí*

framhald af forsíðu

veg veik að komast aftur, eða doka við lengur. Og það er sárt að geta ekki látið svo saklausa skemmtun eftir þeim.

Á sama tíma og kaupmáttur launafólks er kominn niður úr öllu valdi fær þessi okurstarfsemi að eiga sér stað. Þessi útgjöld koma víst ekki inn í vísitöluna. Hvenær kemur að því að fólk hættir að láta bjóða sér því líkt og annað eins?

–Þóa.

Verkalýðsblaðið

Útgefandi: Kommúnistasamtökin
Ritstjóri: Ómar Harðarson (ábm)
Aðsetur: Frakkastígur 14 (í húsnæði Októberbúðar)
Opnunartími: kl. 16.00 - 18.00 þriðjudaga til föstudaga.
Sími: 29212
Pósthólf: 5186 125 Reykjavík
Gírónr.: 12200-9
Prentað í prentsmiðju blaðsins

# Uppsagnir og landflótti

Kunnar eru uppsagnir og lokanir frystihúsanna í landinu. Nú hefur komið skýrt í ljós hvað býr að baki þeim. Eigendur húsanna og stjórnvöld segja að það sé ekki nóg að 20% af tekjum húsanna verði eftir þegar helstu rekstrarkostnaðarliðir eru frádregnir. Þessi 20% er fjárhæð - svokölluð framlegð - sem tekur m.a. yfir gróða eigenda fyrirtækjanna. Og hún tekur ekki yfir hagnað SH og SÍS erlendis. Nú fer það ekki framhjá verkafólki að flestir atvinnurekendur lifa lúxuslífi. Skyldu staðhæfingar um að 20% framlegð sé of lítil, um milljarðatap og um að ekki séu til peningar í launahækkanir, koma til vegna þess að peningafurstarnir vilja halda í sinn skerf? Ekki birtir Vinnuveitendasambandið tölur um tekjur u.þ.b. 4000 félagsmanna sinna. Ekki er rætt um tekjuskerðingu hjá þeim. Hins vegar þykir sjálfsagt að illa launað fólk missi vinnuna beinlínis til þess að peningafurstarnir geti kreist fé út úr kerfinu og varðveitt gróða sinn. Þannig er auðvaldskerfið.

Flugleiðir ætla enn að fækka starfsfólki. Þar sést annar flötur á auðvaldskerfinu. Flugleiðir verða fyrir barðinu á "frumskógarlögmálum" þess. Sjálf hafa þau útrýmt öllum keppinautum innanlands. Og það var ekki umhyggja fyrir nauðsynlegum flugsamgöngum íslendinga sem freistaði Flugleiða til að hefja hótelrekstur, bílaleigu, flugrekstur Air Bahama og Cargolux eða ná undir sig allstórum hluta flugs milli Evrópu og Ameríku. Gróðavonin stjórnaði. Hún og atvinnuöryggi fara aldrei saman.

Í stað illa rekinna, of margra frystihúsa í eigu fárra og í stað auðhrings sem spilar með afkomu hundruða launamanna, verður að byggja upp önnur fyrirtæki. Með samræmingu yfir landið, vísindalegri skipulagningu og hagsmuni fjöldans fyrir augum er hægt að borga mannsæmandi laun, tryggja atvinnu og reka nauðsynleg fyrirtæki á Íslandi. Þess vegna berjumst við fyrir sósíalisma - yfirráðum alþýðu og virku lýðræði.

Íslenskt auðvald hefur hrakið þúsundir manna úr landi með því móti sem lýst er hér að framan. Í raun er um að ræða stórfellt atvinnuleysi og kjararán sem ógnar framtíð landsins. Það er tákn um gagnsleysi og íhaldsstefnu verkalýðsforingja og flokka þeirra að þetta skuli látið óáreitt. Þessu má ekki halda áfram lengi.

# Lifi pólsk andófshreyfing

Kommúnistasamtökin sendu fjölmiðlum yfirlýsingu þar sem þau lýsa yfir stuðningi við hina framsæknu pólsku andófshreyfingu. Þau hafna því að sósíalismi ríki í Póllandi og telja auðsætt að kröfur pólskrar alþýðu ganga í sósíalíska og lýðræðislega átt. Samtökin hvetja öll stjórnmálasamtök og verkalýðshreyfinguna að styðja andófsmenn og koma í veg fyrir að pólsk yfirstétt eða Kremlkeisarar beiti þá ofbeldi og þau fagna árangri verkfallsmanna.



Lech Walesa, leiðtogi pólskra verkamanna borinn á öxlum verkamanna við Lenín - skipasmíðastöðina

# Kovalenko er ekki einn

Það er fagnaðarefni að Úkraníumaðurinn Kovalenko skuli hafa fengið landvistarleyfi á Íslandi. Það eru fleiri í hans sporum, t.d. frakkinn Gervasoni sem enn hefur ekki fengið grænt ljós. Kommúnistasamtökin telja að Ísland eigi að vera öllum pólitískum flóttamönnum opið og miklu þekktara athvarf en nú er. Jákvætt almenningsálit er það eina sem getur fengið stjórnvöld til að opna flóttamönnum landið betur.

-agé 25.8.

# Til lesenda

Eins og skýrt hefur verið frá í nokkrum síðustu tölublöðum hrjá okkur fjárhagsvandræði og fjarvera ýmissa samstarfsmanna blaðsins. Umbætur hafa borið árangur. Áskrifendur hafa tekið innheimtumönnum vel og þeir fáu sem hafa reynt að selja blaðið í lausasölu í sumar láta vel af viðtökum kaupenda. Þá hefur greinilega komið í ljós að fjölbreyttara efni, styttri greinar og stefnumótun í blaðinu falla lesendum í geð og höfum við ekki annað en jákvæðar umsagnir enn sem komið er.

Allt eru þetta góðar vísbendingar og hvatning til þeirra sem blaðið vinna og Kommúnistasamtakanna.

Sem áður minnum við samt á að okkur vantar alls kyns aðstoð við skriftir, vinnslu blaðsins, fjármál og ekki hvað síst lausasölu. M.a. vantar sölumenn eða sölubörn sem munu fá 100-150 kr. fyrir selt eintak.

## Frekari umbætur

Ýmsar umbætur eru fyrirhugaðar á Verkalýðsblaðinu. Frá þeim verður væntanlega skýrt síðar. Hér skal þó getið eins atriðis. Blaðið hefur leitað til all margra manna utan samtakanna og beðið þá um að stunda skriftir á sínum sérsviðum fyrir blaðið. Undirtektir eru góðar og mun afraksturinn, m.a. um efnahagsmál, leiklist og gang mála í Asíu, koma smám saman í ljós með haustinu. Poppþáttur j.guð. er það fyrsta.

Í sumar hefur yfirbragð blaðsins verið nokkuð þurrt m.a. vegna þess að okkur hefur vantað "blaðamenn" sem geta t.d. tekið viðtöl, heimsótt vinnustaði ofl. Úr þessu mun verða bætt í haust. Hafi einhver áhuga á dálítilli áhugablaðamennsku er hann beðinn um að snúa sér til ritnefndar í síma 29212 milli hálffimm og hálfsjö virka daga nema mánudaga. -ritnefnd

# Sæmilegur fundur um Sovétríkin 21. ágúst — en hvar voru SHA?

Á 12 ára ártíð innrásarinnar í Tékkóslóvakíu gátu menn líka minnst hernáms Afganistan og uppreisnar gegn kremlverskunni í Póllandi. Dagblöðin birtu leiðara en útvarp og sjónvarp þögðu að mestu. Árlegar mótmælaaðgerðir, sem Samtök herstöðvaandstæðinga sáu um í fyrra, lágu niðri. Risminni áréttingu um stuðning við framsækna baráttu austantjalds er vart hægt að hugsa sér.

Kommúnistasamtökin reyndu tvennt í tilefni 21.ágúst. Þau buðu öllum stjórnmálaflokkunum að gefa út með sér sameiginlega yfirlýsingu í tilefni dagsins. Framsóknarflokkurinn mætti einn til fundar, en Sjálfstæðisflokkurinn og Alþýðuflokkurinn hafa sýnt jákvæð viðbrögð símleiðis þegar þetta er ritað. Alþýðubandalagið neitar. Fylkingin fyrirfinnst ekki. Í þessari stöðu munu Kommúnistasamtökin halda áfram að ná samstöðu um yfirlýsingu með flokkunum þremur.

Samtímis tilboðinu höfðu fulltrúar samtakanna margoft samband við menn úr miðnefnd Samtaka herstöðvaandstæðinga og ýmist spurðu um fyrirhugaðar aðgerðir eða hvöttu til þeirra. Við treystum SHA og undirbjuggum engar aðgerðir í nafni Kommúnistasamtakanna. SHA sendi frá sér ályktun og Guðmundur Georgsson, formaður miðnefndar, sagði í samtali við blaðið að miðnefnd hefði rætt hvort efna ætti til aðgerða eða ekki. Niðurstaðan varð sú að láta ályktun nægja. Ástæða þess var fyrst og fremst sú að menn töldu tæpast ástæðu til að gera mótmælastöðuna að árvissum atburði og einnig að engin sérstök atvik hafa átt sér stað í Tékkóslóvakíu undanfarið sem gáfu tilefni til aðgerða frekar en ályktunar.

Framkoma SHA er ekki í samræmi við hagsmuni þeirra sem berjast gegn heimsvaldastefnunni og því mjög gagnrýnisverð.

Kommúnistasamtökin héldu fræðslu- og umræðufund að kvöldi 21.ágúst um Sovétríkin. Fundarmenn voru um 70 framanaf, en langur fundur og þyngslalegar umræður fækkuðu þeim nokkuð. Jón Ásgeir Sigurðsson taldi Sovétríkin hvorki kapítalísk né sósíalísk en þó víti til varnaðar. Jón Baldvin Hannibalsson sagði þau vera alræðisríki með nokkuð kapítalískum einkennum og að þau afsönnuðu gildi byltingarstefnu marxismans. Þeir Þórarinn Hjartarson og Ari T. Guðmundsson voru sammála um að Sovétríkin væru bæði ríkiskapítalísk og heimsvaldasinnuð. Jón Baldvin, Þórarinn og Ari vöruðu mjög við Sovétríkjunum og töldu brýnt að berjast gegn þeim. agé/Hafst.

# Viltu nýtt blað?

Hvernig litist þér á að fá í hendurnar Verkalýðsblað með alveg nýju yfirbragði? Allir dálkar væru jafnir eins og í dagblöðum, myndir betri og skipan greina fullkomnari. Blaðið væri sett með fjölbreyttara letri og límt í kjölinn.

Um sinn hefur verið kannað hvort ekki væri unnt að vinna Verkalýðsblaðið að öllu leyti í fullkominni prentsmiðju og þar með losa marga félaga Kommúnistasamtakanna undan lýjandi handaverki í sjálfboðavinnu. Um leið myndi útlit blaðsins stórbatna.

Af þessum athugunum má ráða að samtökin gætu stigið þetta skref með nokkru átaki félaga og ekki hvað síst almennra lesenda og velunnara blaðsins.

Til að ná fjárh..gsendum saman yrði meðal annars að fjölga áskrifendum um 200 fyrir 1.febrúar 1981, selja um 300 eintök af hverju tölublaði í lausasölu og safna einni milljón króna á fyrrgreindum tíma. Einnig færi rúmlega hálf síða til auglýsinga.

Kommúnistasamtökin verða að ákvarða fyrir sitt leyti á næstu dögum hvort þau leggi út í slaginn. Hvað finnst þér lesandi góður? Ert þú tilbúinn til að leggja eitthvað af mörkum?

Hafðu samband við Verkalýðsblaðið og segðu þitt álit á breytingum á útgáfu blaðsins eða láttu vita hvað þú gætir hugsað þér að gera með okkur. Skrifa má í pósthólf 5186, 105 Rvk, eða hringja í síma 29212 milli kl. hálf fimm og hálf sjö virka daga nema mánudaga.

-ritnefnd.

sósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismis
sósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismis
sósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismis

# Hvað er sósíalismi?

Einfaldasta svarið við ofangreindri spurningu er ef til vill á þá leið, að með sósíalisma sé átt við félagslega eign á framleiðslutækjunum. Það er verk verkalýðsstéttarinnar að koma á sósíalisma. Til þess að varðveita ávinninga þeirrar þjóðfélagsbyltingar verður verkalýðsstéttin og bandamenn hennar að mynda sitt eigið ríkisvald - svokallað alræði öreiganna. Þetta ríkisvald er tæki til að sameina kraftana í uppbyggingu sósíalismans og til að "kúga" fyrrverandi yfirstétt a.m.k. þann hluta hennar sem ekki er fús til samvinnu, en vinnur með öllum ráðum gegn hinu nýja þjóðskipulagi. Stéttabaráttan heldur því áfram í sósíalísku þjóðfélagi. Munurinn er sá að þá kúgar meirihlutinn minnihlutann en ekki öfugt eins og er í auðvaldsþjóðfélaginu.

En sósíalisminn felur ekki einungis í sér afnám einkagróðans - afnám arðráns manns á manni. Hann verður einnig að tryggja verkalýð og vinnandi alþýðu síbatnandi lífskjör og aukin lýðræðisleg réttindi. Þetta síðasttalda hefur ekki hvað síst verið í brennipunkti og veldur því meðal annars þróunin í Kína síðustu árin.

Sameign á framleiðslutækjum, sem getur verið með ýmsu móti - ríkiseign, samvinnufélög o.fl., og alræði öreiganna eru þau grundvallaratriði sem sósíalískt þjóðfélag byggir á. Hvernig byggt er ofan á þetta ræðst að miklu leyti af séraðstæðum hvers lands. Hér verður ekki reynt að gefa uppskrift að sósíalisma á Íslandi, hvað þá almennt. Ljóst er þó að við munum nýta það besta sem þróast hefur í auðvaldsþjóðfélaginu, bæði á sviði framleiðslu og lýðræðis, til enn frekari sóknar á þessum sviðum. Í auðvaldsþjóðfélaginu þar sem öll framleiðslan lýtur gróðasjónarmiðum auðherranna er alþýðan nær gjörsamlega svipt áhrifum á framleiðsluna og raunar örlög sín að miklu leyti. Í sósíalísku þjóðfélagi verður að tryggja áhrif alþýðunnar á öllum sviðum, með verkfallsrétti, mál-, prent- og fundafrelsi, frelsi til gagnrýni, trúfrelsi o.s.frv. Í stuttu máli: Finna þarf leiðir til þess að gera hið sósíalíska þjóðfélag "þúsund sinnum lýðræðislegra" en það þjóðfélag sem fyrir er - svo notuð séu orð Leníns.

M.Sn.

# Hvers vegna sósíalismi?

Auðvaldsskipulagið á Íslandi, sem og annars staðar í heiminum, á í sívaxandi erfiðleikum. Offramleiðslukreppa í fiskiðnaði, flestir fiskstofnar ofnýttir, minnkandi atvinna, gífurleg verðbólga og lítil sem engin áhrif almennings á gang mála. Allt eru þetta hlutir sem við könnumst við. Ætli að í sósíalismanum sé fólgin einhver lausn á þessum vandamálum, eða er sósíalisminn einungis tálsýn en ekki raunhæft mark að stefna að?

## Kveður sósíalismi niður verðbólgu?

Í sósíalísku þjóðskipulagi lýtur framleiðslan allt öðrum lögmálum en í auðvaldsþjóðfélagi. Þar eru það þarfir almennings og þjóðarinnar sem ráða ferðinni en ekki sókn einstakra atvinnurekenda í hámarks gróða.

Hefði þetta einhver áhrif á verðbólguna?

Verðbólgan er ein af aðferðum auðvaldsins til að viðhalda og auka eigin gróða. Í hvert skipti sem verkafólki tekst að fá hærri laun er vöruverð hækkað og gengið lækkað, til þess að gróði atvinnurekenda minnki ekki. Séu atvinnutækin í eigu þeirra sem vinna við þau, þá er ekki lengur til staðar þessi sókn í hámarks gróða fyrirtækjanna (les:eigendanna) og því ekki "þörf" á að velta öllu út í ve. lagið.

En yrði næg atvinna fyrir alla, líka konur? Ég álít að svo verði. Verkefnin blasa alls staðar við og þegar ekki þarf lengur að græða á öllu sem gert er, þá ætti að vera nóg að gera fyrir alla.

## Rányrkja auðlinda

Hér á landi, sem víðar í heiminum stöndum við frammi fyrir rányrkju auðlinda. Nær allir fiskistofnar eru ofveiddir og gróðurlendi landsins er í sífelldri hættu. Stjórnvöld hafa æ ofan í æ tillögur fiskifræðinga að engu og leyfa mun meiri afla en þeir telja æskilegt.

Þetta stafar af því, að það eru stundarhagsmunir útgerðarinnar sem ráða, en ekki langtíma hagsmunir þjóðarinnar. Útgerðin vill ná sem mestum afla á sem skemmstum tíma og þá er um að gera að vera á undan keppinautunum að veiða meira en þeir. Alveg sama þó hagkvæmara sé fyrir þjóðina að veitt sé minna og á öðrum tíma árs.

Í sósíalísku þjóðfélagi yrðu það hagsmunir almennings en ekki útgerðarmanna sem væru í fyrirrúmi. Þá hefðu verkafólk í frystihúsum og sjómenn meiri möguleika á að taka þátt í skipulagningu veiða og nýtingu aflans.

## Einn fyrir alla - allir fyrir einn

Það verður að gera ráð fyrir því að kjör einhverra okkar versni við tilkomu sósíalisma hérlendis þannig að við yrðum að neita okkur um eitthvað sem í dag er talið sjálfsagt og ómissandi. Á móti kemur svo að eitt mun yfir alla ganga og niðurstaða þessa hlýtur að verða, að þeir sem verst eru settir í dag fengju betri kjör og tryggari afkomu, meðan þeir sem betur mega sín yrðu að fórna einhverju. En við hefðum líka þjóðfélag þar sem ungir jafnt sem aldnir, konur jafnt sem karlar yrðu fullgildir þjóðfélagsþegnar.

-ei-

Hver yrði staða kvenna ef sósíalismi yrði að veruleika á Íslandi?

# Sósíalismi á Íslandi

**Í grein hér á opnunni hefur almennt verið fjallað um hvernig gera megi ráð fyrir að sósíalismi komist á hérlendis. Kommúnistar álíta slíka byltingu fela í sér að þorri vinnandi fólks óski eftir nýju þjóðfélagi og stór hluti taki virkan þátt í að framkvæma breytingarnar. Þær ná hins vegar ekki fram að ganga með kosningum og þingræðisstarfi. Eigin valdastofnanir alþýðunnar þurfa að koma til og verkalýðsstéttina má ekki vanta sitt vopnalið sem getur hrundið öllum tilraunum til að kæfa eða stöðva breytingar sem mikill meirihluti þjóðarinnar vill á þeirri stundu.**

## Fulltrúalýðræði

Helsta tryggingin fyrir því að þjóðfélaginu sé stjórnað í hag alþýðunnar en ekki arðræningja, er sú að verkalýðurinn ráði í raun og veru ríkisvaldinu. Lengi framanaf útheimtir það fulltrúalýðræði og miðstýringu. Svipaðar stofnanir og við þekkjum nú verða því til á Íslandi sósíalismans - sveitastjórnir, alþingi, ráðuneyti, ríkisstjórn o.s. frv. En grundvallar munur verður á valdsvið og starfsháttum stofnana eða ráðamanna þá og nú. Fyrst skal nefna að áætlanir og markmið verða kynnt almenningi og umræður skipulagðar til að draga saman álit fólks - t. d. á byggðaáætlun eða framleiðsluáætlun - sem á eitthvað undir viðkomandi máli. Almenningur velur frambjóðendur til trúnaðarstarfa og kosningar eru leynilegar en allir fulltrúar ábyrgir gerða sinna og því afsetjanlegir ef meirihluti krefst þess.

Til þess að svona vinnubrögð valdi ekki stjórnleysi og upplausn verða að vera til nefndir, ráð eða skipulögð samtök fjöldans. Þau sjá um að framfylgja lýðræðinu og hafa eftirlit með stjórnendum á hverjum stað - t.d. íbúasamtök, verksmiðjuráð og samtök nemenda, kennara og foreldra.

Kommúnistaflokkurinn hlýtur og verður að eiga fulltrúa sína alls staðar í stjórnunarvaldinu. Aðrir flokkar sem hafna því að kollsteypa hinu nýja þjóðfélagi eru lögleyfðir og frjálsir.

## Ný löggjöf - aukin lýðréttindi

Íslenska stjórnarskráin er um margt nýtilegt plagg. Tveir helstu gallar hennar eru þeir að hún lögverndar einkaeign á framleiðslutækjum og arðinum og leyfir valdamönnum að ráðskast með almennings undir yfirskini þingkosninga.

Megin markmið sósíalískrar löggjafar eru a.m.k. þau að banna einkaeign framleiðslutækja (ekki annars) og banna að einn geti auðgast á vinnu annarra. Um leið þarf að tryggja lýðræði eins og áður er lýst og sjá til þess að allir séu í raun jafnir að lögum, þveröfugt við t.d. það sem íslenskir fjármálabófar búa við núna. Óaðskiljanlegur hluti af raunverulegum sósíalisma eru lýðréttindi. Ríkinu ber að halda uppi og greiða fyrir málfrelsi, fundafrelsi, félagafrelsi, rétti til verkfalla og samninga og prentfrelsi o.fl, Verkalýðsfélög mega ekki vera "ríkisrekin" heldur hagsmunafélög umbjóðendanna. Ýmsar takmarkanir gilda þó gagnvart þeim sem opinberlega vilja brjóta sósíalismann niður með valdi. Þeir gætu t.d. haft málfrelsi en ekki frelsi til að skipuleggja samtök. (sjá t. d. núverandi stjórnarskrá).

Hvernig sem á takmarkanirnar væri litið þá er um að ræða full og aukin lýðréttindi handa yfir 90% þjóðarinnar. Það væri mikil framför.

## Bætt lífskjör og félagsþjónusta

Hér er ekki rúm til þess að fjalla um hvað sósíalismi gæti haft í för með sér fyrir æskufólk, kvennþjóðina , eða menningar eða menntamál. Í staðinn verður drepið á framleiðsluna og félagsþjónustu.

Í stað frumskógarlögmála og skipulagsleysis auðvaldsframleiðslu koma nýir starfshættir. Menn gætu ekki len lengur stofnað fyrirtæki að vild og keppt við ofgnótt fyrirtækja í sömu grein sem fyrir voru og stefnt að því að koma öðrum á hausinn með tilheyrandi atvinnuleysi. Menn gætu ekki flutt fyrirtæki til eftir gróðavon, menn gætu ekki fjárfest upp á von og óvon og ekki sagt upp starfsmanni. Verðmætin sem skapast við vinnu fólks eru gerð upptæk til viðhalds framleiðslunnar og til afnota fyrir félagsheildir, þau á enginn "vinnuveitandi" eða hlutabréfasafnari.

Allt þetta krefst þess að fyrirtækin séu í eigu ríkisvalds verkalýðsins eða í sameigu þeirra sem vinna við þau. Einnig verður að skipuleggja framleiðsluna og fjárfestingar með nokkurri miðstjórn og í samræmi við kröfur fólksins. Sýna verður mikla lipurð og samvinnu, því það er langsótt verkefni að koma sameigninni á að fullu og vinna sér fleiri vini en óvini úr röðum hinn þjálfuðu kapítalista og stjórnunarherra.

Laun manna miðast við framfærslukostnað og sameiginlega getu fyrirtækja, en ekki við það sem atvinnurekendur þykjast nú geta greitt af gróða sínum. Launamunur verður að minnka að mun til að koma í veg fyrir myndun sérréttindaklíka.

Megin breytingin á félagsþjónustu er sú að hún verði ekki lengur miðuð við sparnað og það sem skriffinnar telja arðbært fyrir þjóðfélagið. Fé til hennar er tekið úr framleiðslunni e ekki með erfiðri skatthei frá peningamönnum sem haf 1001 leið til að svíkja u an. Alþýða manna hlyti a skammta sjálfri sér ríflе til hvers kyns félagsþjónustu og lífeyris.

-Snjólfur.

Í dag eru þeir arðrændir, en í sósíalísku þjóðfélagi eru það þeir sem hafa völdin

# Leið Íslands til sósíalisma

## Bylting er óhjákvæmileg

Framtíð Íslands tilheyrir alþýðu landsins. En til þess að svo verði þarf hún að grípa völdin og beita til þess valdi - gera sósíalíska byltingu.

Íslenskt ríkisvald er hvorki "friðsamlegt" né "lýðræðislegt". Það býr að brúklegum kúgunartækjum og getur eflt þau ef nauðsyn krefur. Á 4. og 5. áratugnum háði íslensk alþýða baráttu sína oft í harðvítugum átökum við lögreglu og dómstóla. Þá voru uppi hugmyndir um stofnun vopnaðrar ríkislögreglu. Lögreglan getur kallað út hjálparlið og hefur gert það, t.d. við inngönguna í NATO og heimsókn Nixons og Pompidou. Á Íslandi er NATO-her sem borgarastéttin mun áreiðanlega grípa til ef hún telur veldi sínu ógnað. Marx-lenínistar hafna því friðsamlegri leið til sósíalismans en benda á leið byltingarinnar.

## Þrjú verkfæri - tveir kostir

Til þess þarf að smíða þrjú vopn, sem við köllum stjórnlistarvopn:
1) Kommúnistaflokk - pólitískt forystuafl verkalýðs,
2) Samfylkingu vinnandi alþýðu undir forystu verkalýðsins, gegn borgarastéttinni undir forystu einokunarauðvaldsins og ríkisvalds þess. Samfylkingin byggir á fjöldavirkni og berst á grundvelli stéttabaráttu gegn sérhverri árás auðvaldsins, fyrir umbótum innan ríkjandi þjóðskipulags og fyrir afnámi þess með sósíalískri byltingu. Hún byggir einnig á baráttuhefðum íslensks verkalýðs.
3) Alþýðuher, þ.e. vopnuð alþýða sem er tilbúin að verja ávinninga baráttunnar með vopnavaldi ef þarf.

Varðandi hvernig valdatakan fer fram eru tveir möguleikar sennilegastir:
1) Sá sem líklegri er miðað við ástand heimsmála nú, er að stórstyrjöld brjótist út milli risaveldanna, USA og USSR. Annað hvort þeirra mun áreiðanlega hernema Ísland (hér er nú þegar NATO-her) og þá er leiðin þjóðfrelsisstríð með einhverju sniði sem síðan er snúið upp í sósíalíska byltingu.
2) Hinn möguleikinn er að stéttabaráttan magnist stig af stigi þar til byltingarástand skapast - það ástand sem Lenín lýsir svo: "Þegar yfirstéttin getur ekki og undirstéttin vill ekki, lifa eftir lögmálum hins gamla þjóðfélags." Þá er nauðsynlegt að alþýðan sé vopnuð til þess að geta tryggt sér sigur í baráttunni.

Mörgum þykja þessar kenningar óraunverulegar í "vopnlausu" landi eins og Íslandi. Og það er ekki verkefni kommúnista og alþýðu nú að safna vopnum, heldur að skapa fyrsta stjórnlistarvopnið - Kommúnistaflokkinn. En við verðum að losa okkur við þær tálvonir að brjóstgæði ísl. borgarastéttar séu eitthvað meiri en í Chile eða hvaða öðru auðvaldslandi sem er. Hún mun verja drottnunarstöðu sína eins lengi og þess er nokkur kostur og þá ekki verða vönd að meðulum. En íslenskur verkalýður á sér baráttuhefðir, gott ef ekki byltingarhefðir, sem notast munu í baráttunni.

En verður sósíalismanum ekki undir neinum kringumstæðum komið á friðsamlega? Lenín segir: "En Engels er nógu varkár til þess að taka ekki af skarið. Hann fellst á það, að í lýðveldum eða í sérlega lýðfrjálsum löndum "megi hugsa sér" (aðeins "hugsa sér") friðsama þróun til sósíalismans, en í Þýskalandi tekur hann upp aftur: ....í Þýskalandi, þar sem stjórnin er næstum því almáttug og ríkisþingið og allar aðrar fulltrúasamkundur í rauninni valdalausar, að lýsa yfir slíku í Þýskalandi og það að nauðalausu er að taka fíkjublaðið af einveldinu og binda sjálfan sig fyrir blygðun þess"." (Ríki og bylting bls.87).

Við lifum að vísu hvorki í Þýskalandi einveldisins né í Þýskalandi atvinnubannsins, en marx-lenínistar fullyrða að íslenskt auðvald muni því aðeins gefast upp "friðsamlega" að það sjái fram á skjótan ósigur fyrir verkalýð sem er reiðubúinn að mæta valdbeitingu yfirstéttarinnar af einurð.

## Mikilvægi umbótabaráttu

Íslenska auðvaldsþjóðfélagið á enn spöl ófarinn í þá eyðingu sem það getur ekki umflúið. Fram til þess tíma er mjög brýnt að berjast fyrir hvers kyns umbótum í þjóðfélaginu samhliða útskýringum á því hvers vegna þurfi að bylta því og hvernig það mætti verða. Umbótabaráttan og varnarbarátta vinnandi fólks er skóli í því sem koma skal. Við þurfum öll að læra að vinna sigra, vinna saman á lýðræðislegan hátt og skipuleggja baráttu, bæði til þess að verkafólk og önnur alþýða geti tekið völdin og eins til þess að vera fær um að koma á fót sósíalísku þjóðfélagi sem stendur undir nafni. Kommúnistar eru því reiðubúnir til þess að starfa með einstaklingum og stjórnmálasamtökum eða hagsmunasamtökum nú þegar að baráttumálum dagsins.

Msn/a.

Íslenskur verkalýður hefur oft háð harða baráttu fyrir kjörum sínum. Til að koma á sósíalisma þarf enn meiri baráttu.

sósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismis
sósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismis
sósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismisósíalismis

# Hvað er sósíalismi?

Einfaldasta svarið við ofangreindri spurningu er ef til vill á þá leið, að með sósíalisma sé átt við félagslega eign á framleiðslutækjunum. Það er verk verkalýðsstéttarinnar að koma á sósíalisma. Til þess að varðveita ávinninga þeirrar þjóðfélagsbyltingar verður verkalýðsstéttin og bandamenn hennar að mynda sitt eigið ríkisvald - svokallað alræði öreiganna. Þetta ríkisvald er tæki til að sameina kraftana í uppbyggingu sósíalismans og til að "kúga" fyrrverandi yfirstétt a.m.k. þann hluta hennar sem ekki er fús til samvinnu, en vinnur með öllum ráðum gegn hinu nýja þjóðskipulagi. Stéttabaráttan heldur því áfram í sósíalísku þjóðfélagi. Munurinn er sá að þá kúgar meirihlutinn minnihlutann en ekki öfugt eins og er í auðvaldsþjóðfélaginu.

En sósíalisminn felur ekki einungis í sér afnám einkagróðans - afnám arðráns manns á manni. Hann verður einnig að tryggja verkalýð og vinnandi alþýðu síbatnandi lífskjör og aukin lýðræðisleg réttindi. Þetta síðasttalda hefur ekki hvað síst verið í brennipunkti og veldur því meðal annars þróunin í Kína síðustu árin.

Sameign á framleiðslutækjum, sem getur verið með ýmsu móti - ríkiseign, samvinnufélög o.fl., og alræði öreiganna eru þau grundvallaratriði sem sósíalískt þjóðfélag byggir á. Hvernig byggt er ofan á þetta ræðst að miklu leyti af séraðstæðum hvers lands. Hér verður ekki reynt að gefa uppskrift að sósíalisma á Íslandi, hvað þá almennt. Ljóst er þó að við munum nýta það besta sem þróast hefur í auðvaldsþjóðfélaginu, bæði á sviði framleiðslu og lýðræðis, til enn frekari sóknar á þessum sviðum. Í auðvaldsþjóðfélaginu þar sem öll framleiðslan lýtur gróðasjónarmiðum auðherranna er alþýðan nær gjörsamlega svipt áhrifum á framleiðsluna og raunar örlög sín að miklu leyti. Í sósíalísku þjóðfélagi verður að tryggja áhrif alþýðunnar á öllum sviðum, með verkfallsrétti, mál-, prent- og fundafrelsi, frelsi til gagnrýni, trúfrelsi o.s.frv. Í stuttu máli: Finna þarf leiðir til þess að gera hið sósíalíska þjóðfélag "þúsund sinnum lýðræðislegra" en það þjóðfélag sem fyrir er - svo notuð séu orð Leníns.

M.Sn.

# Hvers vegna sósíalismi?

Auðvaldsskipulagið á Íslandi, sem og annars staðar í heiminum, á í sívaxandi erfiðleikum. Offramleiðslukreppa í fiskiðnaði, flestir fiskstofnar ofnýttir, minnkandi atvinna, gífurleg verðbólga og lítil sem engin áhrif almennings á gang mála. Allt eru þetta hlutir sem við könnumst við. Ætli að í sósíalismanum sé fólgin einhver lausn á þessum vandamálum, eða er sósíalisminn einungis tálsýn en ekki raunhæft mark að stefna að?

## Kveður sósíalismi niður verðbólgu?

Í sósíalísku þjóðskipulagi lýtur framleiðslan allt öðrum lögmálum en í auðvaldsþjóðfélagi. Þar eru það þarfir almennings og þjóðarinnar sem ráða ferðinni en ekki sókn einstakra atvinnurekenda í hámarks gróða.

Hefði þetta einhver áhrif á verðbólguna?

Verðbólgan er ein af aðferðum auðvaldsins til að viðhalda og auka eigin gróða. Í hvert skipti sem verkafólki tekst að fá hærri laun er vöruverð hækkað og gengið lækkað, til þess að gróði atvinnurekenda minnki ekki. Séu atvinnutækin í eigu þeirra sem vinna við þau, þá er ekki lengur til staðar þessi sókn í hámarks gróða fyrirtækjanna (les:eigendanna) og því ekki "þörf" á að velta öllu út í ve lagið.

En yrði næg atvinna fyrir alla, líka konur? Ég álít að svo verði. Verkefnin blasa alls staðar við og þegar ekki þarf lengur að græða á öllu sem gert er, þá ætti að vera nóg að gera fyrir alla.

## Rányrkja auðlinda

Hér á landi, sem víðar í heiminum stöndum við frammi fyrir rányrkju auðlinda. Nær allir fiskistofnar eru ofveiddir og gróðurlendi landsins er í sífelldri hættu. Stjórnvöld hafa æ ofan í æ tillögur fiskifræðinga að engu og leyfa mun meiri afla en þeir telja æskilegt.

Þetta stafar af því, að það eru stundarhagsmunir útgerðarinnar sem ráða, en ekki langtíma hagsmunir þjóðarinnar. Útgerðin vill ná sem mestum afla á sem skemmstum tíma og þá er um að gera að vera á undan keppinautunum að veiða meira en þeir. Alveg sama þó hagkvæmara sé fyrir þjóðina að veitt sé minna og á öðrum tíma árs.

Í sósíalísku þjóðfélagi yrðu það hagsmunir almennings en ekki útgerðarmanna sem væru í fyrirrúmi. Þá hefðu verkafólk í frystihúsum og sjómenn meiri möguleika á að taka þátt í skipulagningu veiða og nýtingu aflans.

## Einn fyrir alla - allir fyrir einn

Það verður að gera ráð fyrir því að kjör einhverra okkar versni við tilkomu sósíalisma hérlendis þannig að við yrðum að neita okkur um eitthvað sem í dag er talið sjálfsagt og ómissandi. Á móti kemur svo að eitt mun yfir alla ganga og niðurstaða þessa hlýtur að verða, að þeir sem verst eru settir í dag fengju betri kjör og tryggari afkomu, meðan þeir sem betur mega sín yrðu að fórna einhverju. En við hefðum líka þjóðfélag þar sem ungir jafnt sem aldnir, konur jafnt sem karlar yrðu fullgildir þjóðfélagsþegnar.

-ei-

Hver yrði staða kvenna ef sósíalismi yrði að veruleika á Íslandi?

# Leið Íslands til sósíalisma

## Bylting er óhjákvæmileg

Framtíð Íslands tilheyrir alþýðu landsins. En til þess að svo verði þarf hún að grípa völdin og beita til þess valdi - gera sósíalíska byltingu.

Íslenskt ríkisvald er hvorki "friðsamlegt" né "lýðræðislegt". Það býr að brúklegum kúgunartækjum og getur eflt þau ef nauðsyn krefur. Á 4. og 5. áratugnum háði íslensk alþýða baráttu sína oft í harðvítugum átökum við lögreglu og dómstóla. Þá voru uppi hugmyndir um stofnun vopnaðrar ríkislögreglu. Lögreglan getur kallað út hjálparlið og hefur gert það, t.d. við inngönguna í NATO og heimsókn Nixons og Pompidou. Á Íslandi er NATO-her sem borgarastéttin mun áreiðanlega grípa til ef hún telur veldi sínu ógnað. Marx-lenínistar hafna því friðsamlegri leið til sósíalismans en benda á leið byltingarinnar.

## Þrjú verkfæri - tveir kostir

Til þess þarf að smíða þrjú vopn, sem við köllum stjórnlistarvopn:

1) Kommúnistaflokk - pólitískt forystuafl verkalýðs,

2) Samfylkingu vinnandi alþýðu undir forystu verkalýðsins, gegn borgarastéttinni undir forystu einokunarauðvaldsins og ríkisvalds þess. Samfylkingin byggir á fjöldavirkni og berst á grundvelli stéttabaráttu gegn sérhverri árás auðvaldsins, fyrir umbótum innan ríkjandi þjóðskipulags og fyrir afnámi þess með sósíalískri byltingu. Hún byggir einnig á baráttuhefðum íslensks verkalýðs.

3) Alþýðuher, þ.e. vopnuð alþýða sem er tilbúin að verja ávinninga baráttunnar með vopnavaldi ef þarf.

Varðandi hvernig valdatakan fer fram eru tveir möguleikar sennilegastir:

1) Sá sem líklegri er miðað við ástand heimsmála nú, er að stórstyrjöld brjótist út milli risaveldanna, USA og USSR. Annað hvort þeirra mun áreiðanlega hernema Ísland (hér er nú þegar NATO-her) og þá er leiðin þjóðfrelsisstríð með einhverju sniði sem síðan er snúið upp í sósíalíska byltingu.

2) Hinn möguleikinn er að stéttabaráttan magnist stig af stigi þar til byltingarástand skapast - það ástand sem Lenín lýsir svo: "Þegar yfirstéttin getur ekki og undirstéttin vill ekki, lifa eftir lögmálum hins gamla þjóðfélags." Þá er nauðsynlegt að alþýðan sé vopnuð til þess að geta tryggt sér sigur í baráttunni.

Mörgum þykja þessar kenningar óraunverulegar í "vopnlausu" landi eins og Íslandi. Og það er ekki verkefni kommúnista og alþýðu nú að safna vopnum, heldur að skapa fyrsta stjórnlistarvopnið - Kommúnistaflokkinn. En við verðum að losa okkur við þær tálvonir að brjóstgæði ísl. borgarastéttar séu eitthvað meiri en í Chile eða hvaða öðru auðvaldslandi sem er. Hún mun verja drottnunarstöðu sína eins lengi og þess er nokkur kostur og þá ekki verða vönd að meðulum. En íslenskur verkalýður á sér baráttuhefðir, gott ef ekki byltingarhefðir, sem notast munu í baráttunni.

En verður sósíalismanum ekki undir neinum kringumstæðum komið á friðsamlega? Lenín segir: "En Engels er nógu varkár til þess að taka ekki af skarið. Hann fellst á það, að í lýðveldum eða í sérlega lýðfrjálsum löndum "megi hugsa sér" (aðeins "hugsa sér") friðsama þróun til sósíalismans, en í Þýskalandi tekur hann upp aftur: ....í Þýskalandi, þar sem stjórnin er næstum því almáttug og ríkisþingið og allar aðrar fulltrúasamkundur í rauninni valdalausar, að lýsa yfir slíku í Þýskalandi og það að nauðalausu er að taka fíkjublaðið af einveldinu og binda sjálfan sig fyrir blygðun þess"." (Ríki og bylting bls.87).

Við lifum að vísu hvorki í Þýskalandi einveldisins né í Þýskalandi atvinnubannsins, en marx-lenínistar fullyrða að íslenskt auðvald muni því aðeins gefast upp "friðsamlega" að það sjái fram á skjótan ósigur fyrir verkalýð sem er reiðubúinn að mæta valdbeitingu yfirstéttarinnar af einurð.

## Mikilvægi umbótabaráttu

Íslenska auðvaldsþjóðfélagið á enn spöl ófarinn í þá eyðingu sem það getur ekki umflúið. Fram til þess tíma er mjög brýnt að berjast fyrir hvers kyns umbótum í þjóðfélaginu samhliða útskýringum á því hvers vegna þurfi að bylta því og hvernig það mætti verða. Umbótabaráttan og varnarbarátta vinnandi fólks er skóli í því sem koma skal. Við þurfum öll að læra að vinna sigra, vinna saman á lýðræðislegan hátt og skipuleggja baráttu, bæði til þess að verkafólk og önnur alþýða geti tekið völdin og eins til þess að vera fær um að koma á fót sósíalísku þjóðfélagi sem stendur undir nafni. Kommúnistar eru því reiðubúnir til þess að starfa með einstaklingum og stjórnmálasamtökum eða hagsmunasamtökum nú þegar að baráttumálum dagsins.

Msn/a.

Íslenskur verkalýður hefur oft háð harða baráttu fyrir kjörum sínum.
Til að koma á sósíalisma þarf enn meiri baráttu.

# Sósíalismi á Íslandi

**Í grein hér á opnunni hefur almennt verið fjallað um hvernig gera megi ráð fyrir að sósíalismi komist á hérlendis. Kommúnistar álíta slíka byltingu fela í sér að þorri vinnandi fólks óski eftir nýju þjóðfélagi og stór hluti taki virkan þátt í að framkvæma breytingarnar. Þær ná hins vegar ekki fram að ganga með kosningum og þingræðisstarfi. Eigin valdastofnanir alþýðunnar þurfa að koma til og verkalýðsstéttina má ekki vanta sitt vopnalið sem getur hrundið öllum tilraunum til að kæfa eða stöðva breytingar sem mikill meirihluti þjóðarinnar vill á þeirri stundu.**

## Fulltrúalýðræði

Helsta tryggingin fyrir því að þjóðfélaginu sé stjórnað í hag alþýðunnar en ekki arðræningja, er sú að verkalýðurinn ráði í raun og veru ríkisvaldinu. Lengi framan af útheimtir það fulltrúalýðræði og miðstýringu. Svipaðar stofnanir og við þekkjum nú verða því til á Íslandi sósíalismans - sveitastjórnir, alþingi, ráðuneyti, ríkisstjórn o.s.frv. En grundvallar munur verður á valdsvið og starfsháttum stofnana eða ráðamanna þá og nú. Fyrst skal nefna að áætlanir og markmið verða kynnt almenningi og umræður skipulagðar til að draga saman álit fólks - t. d. á byggðaáætlun eða framleiðsluáætlun - sem á eitthvað undir viðkomandi máli. Almenningur velur frambjóðendur til trúnaðarstarfa og kosningar eru leynilegar en allir fulltrúar ábyrgir gerða sinna og því afsetjanlegir ef meirihluti krefst þess.

Til þess að svona vinnubrögð valdi ekki stjórnleysi og upplausn verða að vera til nefndir, ráð eða skipulögð samtök fjöldans. Þau sjá um að framfylgja lýðræðinu og hafa eftirlit með stjórnendum á hverjum stað - t.d. íbúasamtök, verksmiðjuráð og samtök nemenda, kennara og foreldra.

Kommúnistaflokkurinn hlýtur og verður að eiga fulltrúa sína alls staðar í stjórnunarvaldinu. Aðrir flokkar sem hafna því að kollsteypa hinu nýja þjóðfélagi eru lögleyfðir og frjálsir.

## Ný löggjöf - aukin lýðréttindi

Íslenska stjórnarskráin er um margt nýtilegt plagg. Tveir helstu gallar hennar eru þeir að hún lögverndar einkaeign á framleiðslutækjum og arðinum og leyfir valdamönnum að ráðskast með almennings undir yfirskini þingkosninga.

Megin markmið sósíalískrar löggjafar eru a.m.k. þau að banna einkaeign framleiðslutækja (ekki annars) og banna að einn geti auðgast á vinnu annarra. Um leið þarf að tryggja lýðræði eins og áður er lýst og sjá til þess að allir séu í raun jafnir að lögum, þveröfugt við t.d. það sem íslenskir fjármálabófar búa við núna. Óaðskiljanlegur hluti af raunverulegum sósíalisma eru lýðréttindi. Ríkinu ber að halda uppi og greiða fyrir málfrelsi, fundafrelsi, félagafrelsi, rétti til verkfalla og samninga og prentfrelsi o.fl. Verkalýðsfélög mega ekki vera "ríkisrekin" heldur hagsmunafélög umbjóðendanna. Ýmsar takmarkanir gilda þó gagnvart þeim sem opinberlega vilja brjóta sósíalismann niður með valdi. Þeir gætu t.d. haft málfrelsi en ekki frelsi til að skipuleggja samtök. (sjá t. d. núverandi stjórnarskrá).

Hvernig sem á takmarkanirnar væri litið þá er um að ræða full og aukin lýðréttindi handa yfir 90% þjóðarinnar. Það væri mikil framför.

## Bætt lífskjör og félagsþjónusta

Hér er ekki rúm til þess að fjalla um hvað sósíalismi gæti haft í för með sér fyrir æskufólk, kvennþjóðina , eða menningar eða menntamál. Í staðinn verður drepið á framleiðsluna og félagsþjónustu.

Í stað frumskógarlögmála og skipulagsleysis auðvaldsframleiðslu koma nýir starfshættir. Menn gætu ekki ~~len~~ lengur stofnað fyrirtæki að vild og keppt við ofgnótt fyrirtækja í sömu grein sem fyrir voru og stefnt að því að koma öðrum á hausinn með tilheyrandi atvinnuleysi. Menn gætu ekki flutt fyrirtæki til eftir gróðavon, menn gætu ekki fjárfest upp á von og óvon og ekki sagt upp starfsmanni. Verðmætin sem skapast við vinnu fólks eru gerð upptæk til viðhalds framleiðslunnar og til afnota fyrir félagsheildir, þau á enginn "vinnuveitandi" eða hlutabréfasafnari.

Allt þetta krefst þess að fyrirtækin séu í eigu ríkisvalds verkalýðsins eða í sameigu þeirra sem vinna við þau. Einnig verður að skipuleggja framleiðsluna og fjárfestingar með nokkurri miðstjórn og í samræmi við kröfur fólksins. Sýna verður mikla lipurð og samvinnu, því það er langsótt verkefn að koma sameigninni á að fullu og vinna sér fleiri vini en óvini úr röðum hinn þjálfuðu kapítalista og stjórnunarherra.

Laun manna miðast við framfærslukostnað og sameiginlega getu fyrirtækja, en ekki við það sem atvinnurekendur þykjast nú geta greit af gróða sínum. Launamunur verður að minnka að mun til að koma í veg fyrir myndun sérréttindaklíka.

Megin breytingin á félagsþjónustu er sú að hún verður ekki lengur miðuð við sparnað og það sem skriffinnar telja arðbært fyrir þjóðfélagið. Fé til hennar er tekið úr framleiðslunni en ekki með erfiðri skattheimtu frá peningamönnum sem hafa 1001 leið til að svíkja undan. Alþýða manna hlyti að skammta sjálfri sér ríflega til hvers kyns félagsþjónustu og lífeyris.

-Snjólfur.

Í dag eru þeir arðrændir, en í sósíalísku þjóðfélagi eru það þeir sem hafa völdin

# 70 þúsund kr. leiga í eigin húsnæði

Ráðamenn landsins og foringjar samtaka launafólks klifa á því að helstra kjarabóta fyrir launafólk sé að vænta úr svokölluðum félagsmálapökkum. Beinar launahækkanir verði uppétnar áður en varir í eilífðarverðbólgunni. Hvað um það, en einn þessara félagsmálapakka og sá sem helst gæti innihaldið verulegar kjarabætur fyrir stóran hóp launafólks er pakkinn með húsnæðismálum.

## 10 árslaun fyrir íbúð

Verðlag á venjulegum íbúðum nú á stærsta húsnæðismarkaðinum, Stór-Reykjavíkursvæðinu, er þvílíkt og með þvílíkum kjörum að enginn venjulegur launamaður getur ráðið við að kaupa íbúð fyrir daglaunin ein. Lauslega má reikna með að til þess að kaupa íbúð þurfi 10 árslaun.

Algengt er að greiða þurfi 60 - 80% af kaupverði íbúðar á fyrsta ári og afganginn á 3 - 5 árum.

Það eru einkum þessar miklu greiðslur á stuttum tíma sem gera almennu launafólki erfitt fyrir. Með því að dreifa greiðslum yfir lengri tíma og lækka útborgun er nokkrum ávinningi náð. Að þessu er stefnt með nýjum húsnæðislögum, enda þótt þær reglur gildi aðeins fyrir ákveðinn takmarkaðan hóp launafólks.

## Eru afborganir dýr leiga?

Nýju húsnæðislögin reikna með staðalíbúð sem er 115 $m^2$ og verðlögð á 33,2 millj. kr árið 1980. Kaupandi greiðir útborgun í tvennu lagi, alls 3.320.000 kr. og fær afganginn 29.800.000 kr. lánað til 42 ára. Fyrsta árið er afborgunarlaust en síðan greiðast 712.000 á ári miðað við verðlag 1980, en lánið er verðtryggt og afborganir hækka því í samræmi við vísitölu og 0.5% vextir, sem nema 150.000 kr. á ári. Alls er því greiðslan 862.000 árlega eða tæpar 72 þús. á mánuði. Við þetta bætast svo fasteignaskattar. Reikna má með þessum "leigugreiðslum" í 42 ár. Miðað við 350.000 kr. mánaðarlaun er "leigan" um 20% af tekjum. Sé reiknað með að hér séu komnar fram allar húsnæðisgreiðslur, fyrir utan skatta verður að telja að ekki sé um verulega dýra "leigu" að ræða. Til samanburðar má nefna að í Noregi er það talinn mikill húsnæðiskostnaður ef hann fer yfir 20% af meðaltekjum iðnaðarverkamanna miðað við dagvinnu. Hjá byggingarsamvinnufélaginu Ungdomens selvbyggerlag kostar venjuleg 3 herb. íbúð í húsnæðisútgjöld um 33% af meðaltekjum iðnverkamanns.



"Vísitöluhúsið er fjölbýlishús í Reykjavík. Nánar tiltekið eitt stigahús af þremur í fjögurra hæða íbúðablokk".

## Almannaréttur?

Hversu margir eiga þess kost að nota þessi hagstæðu kjör? Lögin kveða á um eftirfarandi skilyrði til kaupa á íbúð í verkamannabústöðum:

1) Eiga lögheimili í viðkomandi sveitarfélagi þegar könnun fer fram.
2) Eiga ekki íbúð fyrir, eða samsvarandi eign í öðru formi.
3) Hafa haft í meðaltekjur þrjú síðustu árin áður en úthlutun fer fram, eigi hærri fjárhæð er sem svarar 2.600.000 kr. fyrir einhleyping eða hjón og 230.000 fyrir hvert barn á framfæri innan 16 ára aldurs.

Lögin reikna með heildartekjum skv. skattframtali. Í lögunum skal reiknað með meðaltali áranna 1976, 1977 og 1978. Þessar tekjur framreiknaðar í verðbólgu gera um 7 millj. 1979 fyrir hjón með tvö börn.

Líti nú hver í sitt skattframtal og gá að heildartekjum og athugi hver sínar aðstæður. Þeir sem eiga íbúðarholu eiga ekki rétt. Þá er fólk bundið við það sveitarfélag sem það hefur kannski lent í vegna húsnæðishraks. Heimild er í lögum til að setja þessi skilyrði til hliðar í einstaka tilfellum.

## Lífeyrissjóðirnir eru lykilatriði

Hingað til hefur hlutur íbúða á félagslegum grundvelli verið lítill. Á áratugnum 1968 - 1979 voru slíkar íbúðir innan við 10% af þeim íbúðum sem byggðar voru. Nýju húsnæðislögin gera ráð fyrir að byrjað verði á um 1500 íbúðum á næstu þrem árum og er það veruleg aukning. Samt má segja að þetta sé aðeins dropi í hafið.

Húsnæðismál hafa löngum verið glæfraleikur með brýnustu hagsmunamál almennings. Hver græðir á því að verkamannsfjölskylda eignast þak yfir höfuðið? Jú, fjölskyldan uppfyllir brýnustu þarfir sínar, en alls kyns braskarar græða og velta gróðanum út í ný glæfraspil.

Í Verkalýðsblaðinu var fyrir mörgum árum bent á leið til að verðtryggja, þó ekki væri nema nokkurn hluta lífeyrissjóða launafólks. Sú hugmynd hefur eflaust komið upp víðar, bæði fyrr og seinna. Það er ekki nema sanngjarnt að fjármagn lífeyrissjóðanna verði notað til byggingar íbúða á félagslegum grundvelli. Í dag er hlutur lífeyrissjóða í félagslegum íbúðabyggingum alltof lítill. Fjármagn lífeyrissjóðanna eru peningar sem launafólk hefur greitt þangað beint eða af því verið tekið í stað launa hækkana. Það sem stöðvar alþýðlega notkun sjóðanna er að í stjórn þeirra sitja atvinnurekendur. Krafan ætti því að vera - burt með atvinnurekendur úr lífeyrissjóðunum, þeir eru eign launafólksins.

Það væri ágætt innihald í félagsmálapakka til launafólks að það fengi sjálft að nýta það fé sem er þess, en atvinnurekendur sitja á eins og stolnu gulli.

-Æ.

# Glórulítill fundur

Ég var einn þeirra fáu sem lagði leið mína að Hótel Heklu þann 21.ágúst s.l. til þess að hlýða á spekinga kappræða um Sovétríkin. Og vonbrigði mín voru mikil. Tveir framsögumanna af fjórum stóðu sig ágætlega, en það voru þeir Jón B. Hannibalsson og form. Kommúnistasamtakanna Ari T. Þeirra frísklega framkoma og umfjöllun nægði þó ekki til að gera fundinn að sæmilegum.

Ég held að umræðuefnið hafi boðið upp á alltof fræðilegar hártoganir, en einnig var orðaval og framsetning hinna tveggja þeirra pontumanna glórulaus, nema fyrir einangraðan hóp "sósulista".

Ég held ég hafi heyrt einhvern ávæning af frasa sem kommar nota gjarnan en hann er á þá leið að varast skuli það að drattast á eftir fjöldanum og einnig að stinga ekki fjöldann af. Í þessu fundartilfelli held ég að ansi margir hafi (eða hefðu, ef einhverjir hefðu mætt á fundinn) dregist aftur úr útspekuleruðum og háfræðimannslegum vangaveltum spekinganna, sem þó kunnu ekki nema fáein orð, eins og sósulismi, kapítalismi, efnahagsleg-eitthvað og lýðræðis-eitthvað. Lærdómsríkt væri fyrir samtökin að eiga málæðið á segulbandi svo hægt væri að telja fjölda þeirra orða sem notuð voru og hversu oft þau komu fyrir og teikna síðan súlurit af fundinum. Þetta gæti verið skemmtilegt og fræðilegt, mikil ósköp.

Mín skoðun á marxisma er sú að kenningin sé enginn dulmálslykill fagidíóta. Hugsum okkur samræður tveggja vélfræðinga, sem ræða tæknileg vandamál sinnar greinar. Ég hygg það álíka uppörfandi fyrir stéttvíst fólk sem þekkir margt til þjóðfélagsins en ekki til marxisma að hlusta á dulmálslykla marx-spekinga og fyrir ólærða menn að hlusta á vélaridíót. Ef að ekki verður hér breyting á mun fylgi kommúnista verða svipað að hlutfalli og hópur áhugafólks um vélfræðileg tæknivandamál (sem raunin er). Einnig verða háttvirt Kommúnistasamtök að gera greinarmun á sellufundum, deildarfundum, miðstjórnarfundum eða hvað þeir nú allir heita og á opnum kappræðufundum, varðandi framsögn sinna manna.

Að lokum vona ég að næsti fundur takist betur til og að betur verði að honum staðið.

Leiður

(stytt af ritstjórn)

# Svo var það Pólland

framhald af forsíðu

féagið og þurfa að horfa upp á verkalýðsfélög sem aðeins aðstoða stj=ornvöld við að halda fólki niðri. Þess vegna rísa kröfur um málfrelsi, óháð verkal=yðsfélög og frdlsun pólitískra fanga hátt í landinu.

Efnahagslegu orsakir atburðanna eru fólgnar í kreppu p=olska efnahagsl=ifsins. Pólland er háð Comecon á þann veg að Comecon ákvarðar hvað framleiða skul: í landinu skv. þörfum hinnar sósíalísku heildar". Í raun er landið hækja undir Sovétríkjunum og fullnægir ekki heimaþörf á mörgum sviðum. Arðránskerfið, sem smám saman er til orðið, leyfir ekki að hagnaður framleiðslunnar sé notaður í þágu heildarinnar. Þá hefur gífurleg lánabyrði sligað efnahagslífið.

## Er þetta sósíalismi?

Höfuðmarkmið sósíalismans er að bæta jafnt þétt lífskjör vinnandi fólks. Slíkt útheimtir fyrst og fremst völd verkafólks yfir ríkisvaldinu og efnahagslífinu.

Reynslan frá Póllandi sýnir ekki skipbrot sósíalismans eins og andstæðingar hans segja, heldursanna að niðurstöður marx-lenínista um a-evrópsk þjóðfélög eru réttar í grófum dráttum. Og staðhæfongar falssósíalista í Kreml og Varsjá um að kerfið sé sósíalískt en almenningur galinn fela ekki staðreyndir.

Hitt er svo rétt að það er vandasamt verkefni að halda fram sósíalisma þegar hann hefur beðið ósigur í mörgum löndum. En sem betur fer þá eru vítin að varast og reynslan að læra af.

## Styðjum andstöðuna!

Baráttuhreyfingin ó Póllandi er margþætt. Ólöglegir verkamannahópar, menntamannasamtök og samtök heilla vinnustaða mynda þessa hreyfingu. Meira að segja er til ólöglegur kommúnistaflokkur í landinu. Víðtækust er varnarnefnd verkamanna, KOR, sem er einskonar samráðs- og samhæfingarfélag fyrir andstöðuna gegn Gierek-valdinu.

Íslenskir aðilar, ríkisstjórn, verkalýðshreyfing og stjórnmálasamtök, geta allir lagt eitthvað að mörkum til þess að hindra að Pólland verði önnur Tékkóslóvakía.

Menn muna að hvorkiKremlverjar né handlangarar þeirra í A-Evrópu láta undan kröfum eins og nú sjást og heyrast í Póllandi. Þeir beita skriðdrekum nái fOrtölur ekki fram að ganga.

Við viljum hvorki að pólsk réttindabarátta verði barin niður né að heimsfriðnum sé ógnað enn frekar með hernámi Póllands og "panik" í Kreml eða Washington.

agé.

# Bob Marley og síonisminn

Á nýjustu plötu Bob Marley & The Wailers, "Uprising" er m.a. að finna lag sem heitir "Zion Train". Því miður hafa margir viljað skilja textann við þetta lag sem síonistaáróður. T.d. lagði plötugagnrýnandi Tímans þann skilning í boðskap textans.

En sem betur fer þá er Bob Marley "húmanískari" en svo að hann leggi lag sitt við hægrisinnaða öfgahópa á borð við síonista. Misskilningurinn í sambandi við textann "Zion Train" liggur í vanþekkingu á jamaisku rastafarianmenningunni, en sem kunnugt er þá er Bob Marley jamaiskur rastafari.

Rastafarar nota fjölskrúðugan orðaforða sem kemur ókunnugum einkennilega fyrir sjónir. Dæmi: Yfir kapítalisma og kapítalísk lönd nota rastafarar samheitið Babylon. Andstæðinga Babylons kalla þeir dread. Þeir sem ekki taka þátt í baráttunni gegn Babylon eru kallaðir Baldhead. Svona mætti áfram telja.

*tónlist*

Orðið Zíon nota rastafarar yfir Afríku framtíðarinnar, þ.e. þegar hvíta minnihlutanum hefur verið velt úr valdastóli og svarti meirihlutinn tekinn við stjórnartaumunum um alla Afríku. Í textanum "Zion Train" notar Bob Marley líkingamál, aldrei þessu vant. Hann hvetur fólk til að hoppa um borð í Zion-járnbrautarlestina og gengur út frá því sem vísu að áheyrendur viti hvað Zion er.

"Zion Train" er því áróðurstexti gegn hvítum valdhöfum í Afríku en ekki stuðningstexti við fasíska síonistahópa.

Að lokum má geta þess að plötur Bob Marley & The Wailers eru annað veifið til sölu í Oktoberbúðinni á lægra verði en í almennum hljómplötuverslunum.

-j.guð.




# Ófullnægjandi samningar

Þegar þetta tölublað Verkalýðsblaðsins fór í prentun voru niðurstöður atkvæðagreiðslu BSRB ekki komnar.

Samningur BSRB og ríkisins er alls ekki viðunandi. Úrslit atkvæðagreiðslunnar munu ekki breyta því að halda verður áfram baráttu opinberra starfsmanna og færa hana af því leiksviði toppmanna sem hún hefur verið á. Verði samningurinn samþykktur stendur baráttan áfram um að ná aftur því sem rænt hefur verið beint eða óbeint af kaupinu. Verði samningurinn felldur verða að koma til ný vinnubrögð og óvægari gagnvart ríkisvaldinu, atvinnurekandanum. Við töpum krónum í þúsunda og tugþúsundatali nú eins og að okkur er vegið með allskonar hagsýslun atvinnurekenda (líka ríkisins) og eina ráðið til að vinna eitthvað aftur er hörð barátta og verkföll. Enda þótt við töpum einhverjum krónum kauplaus í verkfalli, þá erum við sífellt að tapa krónum mótþróalaust ef ekkert er að gert.

Verkalýðsblaðið mun fjalla nánar um stöðuna í kjaramálum opinberra starfsmanna í næsta blaði, þegar úrslit atkvæðagreiðslunnar liggja fyrir og málin standa skýrari.

FréttaritariVBL í BSRB.

*Við upphaf skólaárs:*

# Hvaða verkefni bíða kennara?

Nú fara skólarnir að taka til starfa eftir sumarhlé og er þá ekki úr vegi að íhuga það starf sem þar er unnið. Árangur skólastarfsins er reyndar nokkuð umdeildur meðal kennara, nemenda og foreldra. Víða leynist mikil óánægja, sem því miður fær sjaldnast útrás nema í nöldri.

Hagsmunafélög kennara og nemenda ættu svo sannarlega að hafa gagnrýni og umbætur skólastarfsins ofarlega á blaði og leitast við að stýra umræðunni þannig, að hún beri ávöxt í breytingum til bóta. Umræða innan hvers skóla er ágæt undirstaða undir víðtækari umræður og úrbætur.

Eg ætla að leggja hér fram nokkrar spurningar og fullyrðingar í þeirri von, að þær kveiki í einhverjum.



Þessa dagana þyrpast nemendur og kennarar í skólana að afloknu sumarfríi

## Er breytinga þörf?

Þjóðfélagið breytist óhemju ört og verður stöðugt flóknara. Þekking mannsins á lifandi og dauðri náttúru hefur þróast og vex óhemju hratt. Þekkingarforðinn hefur aukist svo, að enginn getur geymt í kollinum svo mikið sem einn milljónasta hluta hans.

Hafa kennarar og íslenska skólakerfið áttað sig á þessu? Jú, það verður að teljast líklegt.

En hefur starfsháttunum þá verið breytt til samræmis við þetta? Er ekki enn þá lögð of mikil áhersla á að dæla sundurlausum þekkingarbrotum í fólk í stað þess að þjálfa aðferðir til að tileinka sér þekkingu?

Er nóg gert af því að kenna fólki að vinna ýmiskonar rannsóknir á umhverfi sínu? Það var t.d. mikið rætt um rannsóknarblaðamennsku hér um árið. Hjálpa skólarnir fólki til að tileinka sér slíkar aðferðir?

Leggja skólarnir næga áherslu á að þroska svonefnda gagnrýna hugsun? Er hægt að hugsa sér raunverulegt lýðræðisþjóðfélag án þess að þorri þegnanna hafi tök á að rannsaka og gagnrýna það sem gert er og rætt er um í þjóðfélaginu?

## Vetrarkvíði

Ýmislegt hefur breyst í skólakerfinu síðastliðinn áratug. Sem dæmi má nefna að fleiri fara nú í framhaldsnám og háskólanám. Slíkt nám er ekki lengur forréttindi þeirra ríku í jafnmiklum mæli og áður. En er ekki núverandi efnahagskreppa að snúa þeirri þróun við? Verður ekki ansi þröngt í búi framhaldsskóla- og háskólanema næsta vetur, ef þeir hafa ekki fjárhagslegan bakhjarl? Lækkandi kaupmáttur þorra alþýðufólks torveldar að það geti stutt börn sín til skólanáms.

Á að líða þetta? Hvað getur snúið þessari þróun? Þeirri spurningu ættu hagsmunafélög nemenda að glíma við að svara.

## Nokkur spor í rétta átt

Ýmislegt hefur breyst til batnaðar í skipulagningu náms og a.m.k. sums staðar hafa kennsluaðferðir breyst til hins betra. Spurningin er hvort sú þróun sé ekki of hæg og fálmkennd.

Í grunnskólum er verið að tilraunakenna gjörbreytt námsefni í mörgum námsgreinum. Í nokkrum tilvikum hafa múrar milli bekkja og milli námsgreina verið fjarlægðir að hluta (sbr. tilraunir í Fossvogsskóla, Æfingaskóla KHÍ, Gagnfræðaskóla Ísafjarðar o.fl.). Það færist í vöxt að kenna nemendum að vinna saman í hópum að ýmiskonar verkefnum og í sumum tilvikum fara nemendur út fyrir skólann í efnisleit. Kennsla af þessu tagi hlýtur að búa nemendur betur undir lífið í þjóðfélagi framtíðarinnar heldur en gömlu ítroðslu-aðferðirnar.

## Hvaðan koma nýjungarnar?

Hverjir hafa knúið fram þessar umbætur. Að því er ég best veit eru það tiltölulega fáir kennarar og skólastjórar (sumir reyndar starfandi í skólarannsókardeild eða Kennaraháskólanum). Oftast kostar það mikla baráttu við fjármálayfirvöld að hrinda tilraunum og nýjungum í framkvæmd, slíkt kallar oft á aukið fé, a.m.k. í byrjun.

Margar hugmyndir stranda í fjármálaráðuneytinu. Einhver sagði að topparnir þar væru í reynd helstu kennslufræðingarnir. Kennurum er oft uppálagt að gera hið ómögulega, t.d. að kenna allt upp í 30 manna bekkjum verklega kennslu, svo ekki sé minnst á of margar kennslustundir á viku.

Starf hinna ýmsu félaga kennara er einn brýnasti þátturinn í úrbótum í skólastarfinu. Starfsemin þarf að vera margþætt. Berjast þarf fyrir bættum launakjörum (reyndir kennarar hrökklast frá störfum af fjárhagsástæðum), fyrir bættum aðbúnaði í skólanum (m.a. nútímalegum kennslutækjum) og efla þarf faglega umræðu (námskeið, ráðstefnur, gefa út fagtímarit).

Eitt er víst, að kennarafélögin eflast ekki nema almennir félagar þeirra knýji þar á.

Þorvaldur Örn Árnason.

# Átti ekki að semja um kaup og kjör?

framhald af forsíðu

með verkfallsheimild undir hendinni, nema launafólk sem veit hvernig hann brúkar hana.

Athyglisvert er að líta á starfsaðferðir verkalýðsforystunnar gagnvart öðrum launþegum og stéttarfélögum þeirra. Það er ekki nóg að félögin í ASÍ bítist og berjist, heldur er einnig andskotast út í BSRB.

Fyrst í stað stóð til að salta BSRB vegna harðrar kröfugerðar þeirra og þvinga sambandið síðan til samþykktar á lúsarsamningum ASÍ. Síðan þegar sýnt var að hvorki rak né gekk í samningum ASÍ og VSÍ, varð stjórninni sem kallar sig alþýðustjórn, ekki lengur stætt á að hunsa BSRB. Einnig vegna þess að BSRB hefur þrátt fyrir allt verið líflegustu stéttarsamtökin. Var nú tekið til þess ráðs að tala um fyrir forsvarsmönnum sambandsins, með ágætum árangri eins og alþjóð veit. En viti menn, forkólfar ASÍ félaga rísa upp á afturfæturna og öskra í fjölmiðlum "dulbúnar kauphækkanir", "ósvífni BSRB-manna" o.s.frv. Þetta eru að sjálfsögðu forkastanleg vinnubrögð auk þess sem þau draga allan mátt úr baráttuglöðum BSRB-mönnum sem hugðust fella samkomulagið.

Hér er barátta og fordæmi einstakra félaga eða sambanda aldrei metið að verðleikum, sbr. verkföll grafískra og farmanna í fyrra. Pólitíkin sem rekin er af forystumönnum gengur út á það að hafa fyrst og fremst auga á samherjum, óháð því hvernig kjörin eru almennt. Af þessu leiðir síðan lág laun og bág kjör fyrir allan þorra launafólks, en atvinnurekendur sitja sem fyrr óáreittir á pungum sínum.

Dáni

Lausasala: kr. 400
Ársáskrift: kr. 6.000
Ársstuðningsáskr: kr. 12.000
Ársáskr. til útl: kr. 12.000

Verkalýðsblaðið

14.tbl. 9.árg. 9.sept. 1980

# Alþýðuleikhúsið 5 ára

Þann 4.júlí síðastliðinn átti Alþýðuleikhúsið 5 ára afmæli. Það var leikhópur á Akureyri og flestir leikarar sem hafa útskrifast frá leiklistarskóla Íslands, auk annars atvinnufólks í leiklist sem stofnaði leikhúsið. Fyrstu þrjú árin starfrækti leikhúsið ferðaleikhús, sem gerði út frá Akureyri. 1978 flutti Alþýðuleikhúsið að hluta til Reykjavíkur og skömmu síðar alveg. Alþýðuleikhúsið telur nú milli 50 og 60 félaga, sem eru m.a. leikarar, leikstjórar, leikmyndateiknarar, rithöfundar, þýðendur og tónlistarmenn. Alþýðuleikhúsið hefur farið í leikför til norðurlanda við góðan orðstýr. Verkefni leikhússins hafa verið bæði innlend og erlend og yfirleitt mjög pólitísk verk. Er skemmst að minnast Blómarósa eftir Ólaf Hauk Símonarson og "Við borgum ekki" eftir Dario Fo.



Míta (Guðrún Gísladóttir) og gamli flautuleikarinn (Viðar Eggertsson).

Nú eru nýhafnar sýningar á 8. verkefni Alþýðuleikhússins, Þríhjólinu eftir Spánverjan Fernando Arrabal. Arrabal ólst upp í Madrid, en fluttist til Frakklands rúmlega tvítugur m.a. til að mótmæla fasismanum, sem ríkti í heimalandi hans.

Þríhjólið er absúrd leikrit. Það fjallar um utangarðsfólk sem heldur sig í námunda við einn bekk almenningsgarðsins. Tveir utangarðsmennirnir, Abal og Climando, leigja þríhjól sem þeir nota til að fara með börn í salibunu á. Abal liggur næstum allan tímann á bekknum og sefur en Climando eyðir tímanum í fíránlegar rökræður við gamla flautuleikarann og samræður við Mítu. Þetta fólk á enga peninga og hungrið hrjáir það. Það drepur því mann til að geta hirt af honum peningana hans. Það skilur ekki lögin sem gilda í þjóðfélaginu og lögreglumaðurinn talar gjörsamlega óskiljanlegt tungumál. Og því finnst undarlegt að mega ekki myrða mann, sem hvort sem var ætlaði kannski að fremja sjálfsmorð.

Pólitík leikritsins er ekki alveg upp á yfirborðinu eins og t.d. í Blómarósum, enda gjörólík leikrit, en kafi maður aðeins undir það, skilur maður eitt og annað sem ég ætla ekki að rekja hér.

Ég hafði mjög gaman af sýningunni, enda var hún bráðfyndin á köflum. Leikarar standa sig allir vel, og leiksviðið er einfalt og skemmtilegt.

Ég vil eindregið hvetja fólk til að styðja Alþýðuleikhúsið, sem þrátt fyrir allt mótlæti er orðið 5 ára gamalt. Vona ég að sem flestir sækji þessar og aðrar sýningar leikhússins, enda er þetta eina framsækna leikhús landsins.

Hafst.




Þrjár rokkhljómsveitir koma fram á hljómleikunum: Utangarðsmenn, sem hafa farið sigurför um landið undanfarna mánuði; Þursaflokkurinn sem öllum er vel kunnur og Táragas, sem er ný hljómsveit sérstaklega samansett fyrir þessa hljómleika.
Miðaverð er kr 7000, sem verður að teljast viðunandi. (Það kostaði 8000 á hljómleika Clash).

# Rokk gegn her

Að kvöldi 13.september n. k. verður stórviðburður í Laugardalshöll. Samtök herstöðvaandstæðinga efna þar til stórkostlegra rokkljómleika, líklega þeirra stórkostlegustu sem haldnir hafa verið hér á landi. Hljómleikar þessir hafa yfirskriftina "Rokk gegn her". Þeir verða byggðir upp á nýstárlegan hátt að minnsta kosti fyrir Íslendinga og allt verður gert til þess að skapa stemmningu fyrir þeim málstað sem fram kemur í yfirskriftinni.

Það er ánægjulegt að SHA skuli efna til þessara hljóm leika. Samtökin verða að vera með opin augu fyrir nýjum baráttuleiðum og þessi hefur reynst vel erlendis og því þá ekki að reyna hana hér. Verkalýðsblaðið hvetur fólk til að sækja þessa hljómleika og styðja þannig baráttuna gegn hernum og NATO og hafa auk þess ómælda ánægju af að hlusta á gott, kraftmikið og róttækt rokk.

Hafst.

# Nýjan verkalýðsflokk?



Verkalýðsblaðið hafði samband við Jósef Smára Jósefsson verkamann í Kópavogi og bað hann að svara spurningum blaðsins.

1. Telur þú nauðsyn á nýjum verkalýðsflokki?
Svar: Ég get ekki betur séð en að Alþýðubandalagið hafi brugðist algjörlega sem verkalýðsflokkur og held því að nauðsynlegt sé að stofna nýjan og sannan verkalýðsflokk.
2. Hvernig lýst þér á sameiningu EIK(m-l) og KFÍ/ML?
Svar: Mér lýst vel á þessa sameiningu og vona að í framhaldi af henni verði stofnaður verkalýðsflokkur.

# Glottandi hlutleysi er verst

Í mörgum erlendum blöðum má finna frásagnir blaðamanna sem hafa heimsótt Kampútseu. Sumir gera lítið úr baráttunni gegn víetnömsku hernámi og styðja það. Aðrir hafa heimsótt skæruliða og gera mikið úr starfi þeirra og baráttu. Slíkt er í sjálfu sér ekki í frásögur færandi og sem betur fer eru þeir fleiri sem halda í heiðri sjálfræði þjóða og fordæma hernámið en hinir. Dagur Þorleifsson skrifar fyrir stuttu grein í Þjóðviljann. Hann segir Kampútseu mest alla vera á valdi víetnama. Líftaug skæruliða er hjálp Kínverja og bandaríkjamanna, víetnamar réðust inn í Tæland til að skera á þessa taug, margir telja vonlítið að skæruliðar nái að mynda

framhald á síðu 2



Flóttafólk frá Kamputseu, sem flúið hefur land undan hermönnum Víetnam

# Af baráttuhópi farandverkafólks

Eigi slíku vant hefur Baráttuhópur farandverkafólks ekki verið mikið í fréttunum síðustu vikur.
Starf hópsins heldur þó áfram og hefur þegar skilað nokkrum árangri. Vel hefur tekist að vekja athygli fólks á kjörum og aðbúnaði farandverkafólks og ekki fer hjá því að annað verkafólk njóti þar góðs af.
Í nokkrum verbúðum hefur aðbúnaður heldur batnað og starfsmaður heilbrigðiseftirlitsins hefur verið á þönum um landið í sumar að mæla og meta verbúðir.
Nú er verið að vinna úr þeim upplýsingum með það fyrir augum að semja reglugerð.

Það fréttist lítið af sérkröfum farandverkafólks, sem eru að veltast einhvers staðar í hinni ógnarstóru og flóknu samningavél. A. vonum ríkir ekki mikil bjartsýni um útkomuna þar.

Nokkrir félagar í baráttu hópnum settu saman skemmti- og baráttudagskrá, er hlaut nafnið Stimpilklukkukabarettinn. Þar er fjallað í söng og mæltu máli um aðbúnað og kjör verkafólks á Klakafirði við Dröngulddjúp og baráttu þess við forstjórann Gunnsa Gæ, sem reykir feitan vindil og á lekkra frú og frystihúsið Hagsæld að auki með... Dagskrá þessi var sýnd á nokkrum stöðum úti á landi í sumar og voru umræður um kjör og réttindi verkafólks í lok sýninganna. Sýningar hafa legið niðri um hríð, en ætlunin er að taka þær upp að nýju með haustinu.

Vert er að vekja athygli á þessari nýstárlegu baráttuaðferð, sem hópurinn beitir og er vonandi að ýti undir annað baráttufólk til að finna upp á einhverjum nýjum baráttuformum, sem henta aðstæðum.

-ÞÖA